# VARABÁLKUR,

KVEÐINN AF

SIGURÐI HREPPSTJ. GUÐMUNDSSYNI.

---

KOSTNAÐARMENN:

BJÖRN JÓNSSON, STEFÁN STEFÁNSSON

---

AKUREYRI,

PRENTAÐUR Í PSENTSMIÐJU NORÐUR- OG AUSTUR-

AMTSINS. B. M. STEPHÁNSSON.

1872.

## Formáli.

Höfundur ljóðmæla þessara er fæddur 17. desemb. 1795, og ólst hann upp hjá foreldrum sínum að Syðra-hóli á Skagaströnd fram um fermingaraldur; þá fór hann að Heiði í Göngu-skörðum til Jóns Dagssonar og Ingunnar konu hans. Þar var hann alla æfi síðan. Hann átti Helgu Magnúsdóttur prests á Fagranesi Árna sonar og með henni 6 börn; lifir hún enn og 2 börn þeirra. Hreppstjóri var hann um 14 ár í Sauðárhrepp. Á seinustu árum sínum var hann hjá Guðmundi syni sínum að Heiði, efnilegum manni, unz Guðmundur dó[1], og síðan hjá Stefáni tengdasyni sínum samastaðar til dauðadags 15. marz 1869. — Eftir lýsingu kunnugra og áreiðanlegra manna var Sigurður sál.

---

1) *Magnús hèt annar sonur hans, er upp komst, gáfumaður og hagyrðingur mikill. Hann kvað, áður hann drukknaði á Húnaflóa og þeir* 11 *saman* (1862)*:*

*Þó eg sökkvi' í saltan mar,*
*sú er eina vörnin:*
*ekki gráta ekkjurnar*
*eða kveina börnin.*

einkar vel að sèr gjör um marga hluti. Um fyrra hluta æfi sinnar var hann ákafamaður til framkvæmda, því að fjörið var mikið; fjárgæzla þótti honum sèrlega vel lagin, og manna var hann lèttfærastur, svo það var að ágætum haft. Lengst af hafði hann góð efni, en þó var örlæti hans engu minna. Hann var greiðamaður mikill. 3 börn vandalaus ól hann upp fyrir lítið eða ekkert; klukku gaf hann til Fagraneskirkju, er kostaði 60 rd. og kostaði síðan tölverðu til viðgerðar á henni utanlands. — Að þeirra áliti, er nokkuð þektu til, var Sigurður sál. afbragðs-gáfumaður. Þótt hann væri upp alinn í mentunarleysi, eins og það var um næstl. aldamót hjá flestu fátæku alþýðufólki, er lifði um og eftir harðindin miklu, og þótt hann lifði í afskektri fjallabygð, háður búskaparönnum, þótti hann flestum betur að sèr í hinum nýrri ritum, er út komu, en þó sèrstaklega í guðfræðisefnum; að lesa, hugsa og tala um slíkt var hið eiginlega yndi hans og líf. Hann las og skildi vel danskar bækur, og stundum mun hann hafa lagt út fyrir sóknar prest sinn að Fagranesi dönsk vers og sálma[1]. Skáldskapurinn var ann-

---

1) *Þannig stendur líklega á því, að hann hefir þýtt þetta í Mart. Dogmatik (bls. 329): Du gaaer mig tidt imöde; Þýð. er þannig:*

*Frá dauðum risinn móti mèr,*
*minn frelsari, oft þú kemur hèr,*

að það, er hann hafði mestar mætur á. Hann hefir einnig ort allmikið, en margt af því er komið á sundrung og margt eflaust glatað. Það, sem menn helzt þekkja eftir hann, er þetta:

1. Nokkur ljóðabrèf.
2. Sálmasafn.
3. Varabálkur, sem hèr birtist.

Ljóðmæli þessi eru að mörgu merkileg og lýsa án efa hugsunarhætti höf. einkar vel. Sumstaðar í ljóðabrèfunum (sum þeirra eru all-löng) er tölvert vikið á ástand tímans, bæði hætti manna alment og stjórnarefni. Lýsir sèr þar hjá höf. mikil ást til ættjarðar sinnar. Honum gremst deyfð og dáðleysi margra í andlegum og líkamlegum efnum, eða þá flysjungsháttur sumra, og hins vegar stjórnarófrelsi og margskonar kúgun, en þráir, að sönn dygð, drengskapur og þjóðfrelsi beri sigur úr býtum. En þótt ljóð þessi væri þess verð, að þeim væri á loft haldið, þykir þó miklu minna um þau vert enn sálmasafnið. Í því eru yfir 120 sálmar (nokkuð mun þó vera tapað) auk fjölda versa, og er þar

---

*gjörvalt umfaðmar ást þín trú*
*á hverri stundu birtist þú;*
*í náttúrunnar ásýnd skín*
*afmáluð dýrð og gæzka þín,*
*eins lýsir um mitt hjartans hús*
*þín heilög nálægð, minn Jesús.*

sumt að voru áliti snildarlega ort; yfir höfuð eru sálmar þessir vel og liðugt kveðnir; þeir lýsa víða andríki, ljósri og góðri þekking og lifandi trú.

þessi litlu ljóðmæli, er hèr koma út á prent, og kallast »Varabálkur« eru sundurlausar varúðar-reglur og heilræði andlegs og veraldlegs efnis. þau eru ort af höf., þegar hann var kominn um sjötugt, og er víða auðfundið, að hann hefir ekki rímað þau eftir spakmæla- og heilræða-söfnum, er fyrir honum hafa legið, heldur tekið þau upp frá eigin brjósti, af þekkingu sinni og reynslu. Sama efnið kemur hèr stundum fyrir á fleirum enn einum stað, en þó víðast þannig fram sett, að eigi varð þessari endurtekning út rýmt að mun, því að þá hefði tapazt nokkuð með, er gott var að hafa. Efnið er víða í líflegum búningi, sem yfir höfuð einkennir kveðskap Sigurðar sál. Málið er allgott (þó er það betra á sàlmunum) og kveðandi víðast snjöll og liðug, þó að hátturinn sè í dýrasta lagi.

Sem sýnishorn af sálmum Sigurðar sál. er einn settur hèr aptan við án þess, að hann þyki betri enn margir aðrir sálmar hans, en sökum efnis virðist ekki eiga illa við, að hann endi ljóðmæli þessi. þau eru tekin eftir allgóðu handriti, skrifuðu af fyrrverandi hreppstjóra Skúla Bregþórssyni á Meyarlandi.

það væri vel varið hinu litla ómaki fyrir kveri þessu og prentun þess, ef það yrði unglingum til dægrastyttingar og þeim, er þykir gaman að fara með vísur, og ef það gæti jafnframt vakið nokkra athygli á því, er höf. ljóðanna hefir einlæglega viljað benda á.



## LEIÐRJETTINGAR:

Bls. 25, 8. línu að ofan fyrir les: firrir. Bls. 31. 6, línu að neðan Drottinu les: Drottinn. Bls 33, 12, línu að neðan Hússèttin les: Hússtèttin. Bls. 40, 2. línu að ofan glcði les: gleði. Bls. 50, 8. linu að ofan slarka les: skarka. Bls. 80, 6. línu að ofan skrúfúr les: skrúfur.

Finnist fleiri prentvillur, er góðfús lesari beðinn að lesa í málið.

---

Mundar skara skaltu ver
skoða svara þráðinn:
eg vil fara að þylja þèr
*þægða- og vara- ráðin.*

Unna dáðum sjertu' óseinn,
sæmdum náðu rèttum;
Guðs að ráðum hjarta hreinn
heims við sjáðu prettum.

Lærðu biðja Guð þín gá,
gott svo iðja megir;
hans þig styðja hönd mun þá,
hættum ryðja' úr vegi.

Leitaðu sóma sannleikans,
safnaðu blómi dygða,
neitaðu hljómi hègómans,
hafnaðu grómi stygða.

Varast hála heimsins prjál,
hans ei táli gleymdu;
hugsaðu' um sálar heilagt mál,
hug forsjálan geymdu.

1

Hugrenningum haf á taum,
holdsginningar deyddu,
tilfinningum gef að gaum,
geðshræringum eyddu.

Þitt skaplyndi lögum bind,
lamaðu blindar girndir,
upp sem kynda kvíða og synd,
kámaðar yndis myndir.

Tilfinningum haft á haf,
hugrenningar vanda;
geðshræringum æstum af
óhamingjur standa.

Hrjáðu gráðið hègómans;
háð ei tjáðu smáðum;
sjáðu ráðin sannleikans,
sáðu dáð í náðum.

Ryk ágæti heimsins halt,
— hikaðu kæti reisa —
þykir mætismönnum allt
mikillæti hneisa.

Máttu' ei státa þig af því
þrátt fær kátur vinna;
hátta látum öllum í
áttu mátann finna.

Láttu þekkja þig að dygð,

þráttaðu' ekki af skyldum;
áttu' að hnekkja hvers kyns brigð,
hátt' er hnekkir gildum.

Eigingirnd í útlegð hrind,
er hún blind og galin
eiturkind, sem elur synd,
ótal myndum falin.

Undir því, sem áttu frí,
ekki gnía máttu;
ágirnd flý, það flærðar bý
frá þèr knýja áttu.

Hreinskiftinn sè hugur þinn,
hneisu spinn ei neinum;
ráðdeild svinn og sanngirnin
sè með vinning hreinum.

Hataðu smjaður, hræsni, tál,
hreinhjartaður sèrtu,
iðkaðu glaður óbreytt mál;
afbragðsmaður vertu.

Sýslan jafnan ven þig við
vel þá dafnar gengi;
í Herrans nafni' og hans í frið'
hollum safna fengi.

Í göngu' og sessi glögt þèr má
glæða hressing mæta:

að Guðs þèr blessan búi hjá,
bezt átt þess að gæta.

Reglu bundin ræktu störf;
rètt þess mundu gæta:
hvað sem fundin heimtar þörf,
helzt ástunda' að bæta.

Góða siði ven þig við,
vertu iðinn tíðum;
ávalt bið um andans lið,
untu friði blíðum.

Lærðu dygð og fróman frið,
færðu stygð úr þanka,
nærðu trygð og sóma sið
særðu' ei hrygðar-kranka.

Gagn og sómi sannur er,
sagnir frómar lærir,
magnar hljóminn heiðurs þèr,
hagnaðs blóma nærir.

Mettu dygðir framar fè,
flèttaðu trygðir prúðar;
rètt að hyggðu sæmdin sje
sett í bygð varúðar.

Lát þèr vaxa vizku strax,
virkt alslags svo hljótir,

og til hags og auðnulags
æfidagsins njótir.

Meiddu' ei innra manninn þinn
með ávinning pretta;
leiddu í sinnu salinn inn
sjálfs Guðs minning rètta.

Hugsaðu hvað sem hefst þú að,
hvort það staðizt fái,
og viljir glaður þola það,
þig hver maður sjái.

Gætinn sèrt og gjör ekkert,
sem getur skert þinn heiður,
hafna þvert því hann fær skert;
hjálpar vertu greiður.

Gráhærðan ei grem þú mann,
grætur hann þá máske;
á þig banni ausa kann,
æxlast þannig háski.

Aldrei þjáðum auðsýn háð,
aum ei sláðu sárin;
köld eru ráð þess kröm fær þjáð,
krauma bráðheit tárin.

Heftu kalda hugarþrá,
hatur gjald ei neinum;

hygg þú aldrei hefndir á,
helzt þær valda meinum.

Ef þèr brjóta aðrir mót,
ilskuhót ei sýndu,
sem eru ljót, og svörin fljót
sízt með blóti klíndu.

Lengi þrátta mjög ei mátt,
mikið átt ei reiðast;
fús til sátta sjertu brátt,
sakir láttu eyðast.

Ókendan ei atyrð mann,
ei sem vann þjer hnekki;
enginn kann að ætla' á þann,
sem áður hann ei þekkir.

Hvernig fer, ef hann af þèr
heiður bera kynni?
Minkun þver, sem maklegt er
mun þitt skera sinni.

Rek meinbægni brátt þèr frá,
burt sèrplægni stefndu,
úr tvídrægni aflið slá,
óráðþægni temdu.

Aldrei miða verk þín við
veröld siðanauma;

þeim sem biður þeim veit lið,
þrykk ei niður auma.

Synjaðu snauðum sízt um brauð,
sèrt ótrauður gjafa;
það eru gauð, sem neita' í nauð,
nokkurn auð þó hafa.

Gjör þú ekkjum aldrei mein,
aumra hnekk ei rètti,
Herrann þekkir þeirra kvein,
þrauta hlekk af lèttir.

Drottinn heitið hefir því,
hjálp þeim veita greiða,
hans nær leita hörmum í,
hinna skeytum eyða.

Hann, sem rètti rænir þær,
— reynslan þetta sýnir —
illra pretta iðgjöld fær,
angist þjett hann pínir.

Ef þær vanda vel sitt ráð,
vörn Guðs handar finna;
æðstu standa studdar náð,
stjórn hans anda sinna.

Atlot sjúkum auðsýn mjúk,
ástfús lúk þá skyldu,

góðsemd brúka, grát af strjúk,
greið aðhjúkrun mildu.

Tjá þeim vægð og veit nálægð,
vel þeim hægðar leita;
ef þeim þægð af ástar nægð
innir, frægð má heita.

Geymdu ánægt geð þèr hjá,
gæfu má það búa;
aldrei þrá það ei mátt fá,
átt hug frá því snúa.

Gætni með sá grunda rèð,
Guð hvað lèð oss hefur,
fær glögt sèð hans föðurgeð,
fögur gleði' hann vefur.

-Grundaðu áður orð fær tjáð,
úrskurð bráðan tefðu;
vel að gáðu vizku dáð,
valin ráð svo gefðu.

Kærleiks ómi klæð þú róm,
klín ei grómi stygða;
nærir sóma siðsemd fróm,
sýnir blómið dygða.

Gefðu ungum áminning;
aumra hungur seddu;

þeit ei þungri böls ýfing,
brjóst harmþrungið gleddu.

Haldinorður vert, minn vin,
viti skorða málið;
als kyns forðast yfirskyn,
öndvert horfðu táli.

Vel þèr þann að vin, sem ann
vizku og sannleiksdáðum,
trúfastan, sem kærleik kann,
— kveð þú hann að ráðum.

Haltu trygð við hann með dygð
hans ei hrygðu sinni,
honum stygð ei þjóð nè brigð
breytni' að hyggðu þinni.

Börnum gjalt ei kífið kalt;
kenna skalt þeim fræði;
til þeim halt að hugsa' um allt,
hreint og snjalt siðgæði.

Þín sè gleði þægðum með
þeirra geð að kæta;
sá hefir freðið sinnubeð,
sem þau rèð oft græta.

Barn varst þú og betri' enn nú,
bending sú þèr nægi;

vel þeim snú að vizku' og trú,
við þau bú með lagi.

Þrjózku stríða þeim frá hýð,
þau svo kvíði aga,
og með hlýðni alla tíð
æfi- prýði- daga.

Lát þau ótta læra skjótt,
ljúft og rótt hugferði,
vizku gnótt, og gagns íþrótt,
góðvirk fljótt svo verði.

Huga snú að helgri trú,
hvað sem nú að bendist
að henni bú, sem bezt kant þú;
blessan sú þèr endist.

Ilt ei kann að orka' á þann,
er í sannleiks ljósi
sitt skeið rann, því svik og bann
sigrar hann með hrósi.

Tíma naumum gef að gaum,
gakk frá straumi spiltum;
sá er aumur, sem við glaum
sefur í draumi viltum.

Viltum látum gef að gát,
geymdu mátan lengur;

margt á bjatar, magnast stát,
margt í fáti gengur.

Lèttúð gjaltu varhug við,
vefur hún alt með brigðum,
hennar valt er hyggjumið,
hun blæs kalt að trygðum.

Hún um það ei hugsun ber,
hvar við staðar nemur,
fer á hvað, sem fyrir er,
fyrst þar að, sem kemur.

Oft þó hafi hýran svip,
og hreifi skrafi mildu,
einatt gaf þeim óholl klip,
sem á henni lafa vildu.

Eltir prjál, en sveltir sál,
siðum brjálar rèttum,
veltir táli, mèltir mál,
miðlar gjálíf prettum.

Þó er hún vest, ef þrá er mest,
þá er hún pest í dygðum;
væri bezt, hún fengi' ei fest
fót — það sèst — í bygðum.

Kvenna ást er ekki skást
af því slást þarf móti;

heill þeim brást, við hana' er fást,
hrygða þjást af róti.

Varast hála vèla rún,
er villir mál og siði;
eins og bálið brennir hún,
banar sálar friði.

Flúðu hrundar fund um stund,
flá í lund ef væri;
trúðu' ei sunda tundurs grund,
tak þèr undanfæri.

Vel þig stiltu um það alt,
er þitt kvilt fær sinni;
ást þú vilta varast skalt,
vegferð spiltu' ei þinni.

Mjög er bágt við margt að fást,
mót sem áttu snúa,
en verra fátt enn: ófrjáls ást;
eflaust mátt því trúa.

Sízt þó hrein um sinnu reit
sè hèr einatt fundin,
oftast reynist afarheit,
ást í meinum bundin.

Þann fær hrakið heillum frá
hart átak er gefur;

mörgum klaka kaldan á
komið saknæm hefir.

Heitir gleði', en þungt mjög þó
þreyta rèð á stundum,
veitir gæði rýra ró,
reitir fèð úr mundum.

Við hviklyndi vara þig;
varp það skyndilega
skuggum yndis oft á sig,
olli synd og trega.

Staðfast hjartað ágætt er,
af því margt gott streymir,
dygða skarti safnar sèr,
sannleik bjartan geymir.

Mannorð bezt það met, sem hèr
minnstir brestir gróma;
að sem flestir unni þèr,
álít mesta sóma.

Eig þú fátt við suma samt,
satt það láttu heita:
ást-vináttu öllum jafnt
er mjög bágt að veita.

Hafirðu fest í huga' að þèr
hylli flestra snúa,

vanda mest, þá velja fer
vin, er bezt skal trúa.

Hvar sem leið þín liggur hèr,
lífs meðan eyðir degi,
æðstan heiður álít þèr:
öðrum greiða vegi.

Góðs til örugg áform haf,
út þeim fjörugt haltu;
»það sem kjörir öðrum af
eins þeim gjöra skaltu«.

Ágætt væri ef öllu', er sèr,
eftir lærir taka;
tækifæri horfnu hèr
hvergi nær til baka.

Dæmin máttu sífelt sjá,
sem þú átt að nýta;
undandráttur einatt má
auðnu þáttinn slíta.

* * *

Mörg eru fljóðin fróm og góð,
frama þjóðar prýða;
sumum hnjóður samt af stóð,
sæmd og hróður níða.

*Víra-gná ef viltu fá:*
vel þèr þá til ekta,

er vel má sèr una hjá,
áður dável þekta.

Auðs sè tróða guðhrædd, góð,
gangi slóðir dygða,
verkhög, fróð og virt af þjóð,
vakti sjóðinn trygða.

Hún ætíð sè þrifin, þýð,
þokka prýði sniðin,
nákvæm, hlýðin, nokkuð fríð,
nýtin, blíð og iðin.

Henni dátt þú unna átt;
ekki máttu brúka,
kífs áslátt, sem krenkir brátt
kærleiksháttinn mjúka.

Hún er yndis heilnæm lind;
Hyrju vindinn blíðan
hennar binda mátt við mynd,
— mun það hindra kvíðann.

Vel það skaltu varast alt:
viðmót kalt og brigðir;
yndið snjalt svo verði' ei valt,
vandlega haltu trygðir.

Óhrein trygð og ástarbrygð
ollir stygða bárum,

særir dygð í sinnu bygð,
safnar hrygðar tárum.

Ósamlyndið elur synd,
ilsku kyndir brælu,
flekkar yndis fagra mynd,
frá sèr hrindir sælu.

Iðin, trú og ötul hjú
eru nú hið bezta
hvers, er þú kant hafa í bú,
og hamingja sú þín mesta.

þeim þú mátt, ef auð til átt,
á þann hátt sem hlýðir,
spara fátt, en borga brátt
bezt með sátt og prýði.

Vel þèr hjú, sem þekkir þú,
þrifin, trú og lagin;
að þeim hlú með alúð nú,
alt þeim bú í haginn.

þau munu dável þjóna hjá
þjer og ánægð vinna,
dygðir tjá og dugnað ljá;
dæmi má þess finna.

Yrktu jörð og hýstu hjörð;
hafðu svörð að brandi;

hlintu' að görðum, hladdu' í skörð,
haltu vörð á landi.

Búfènaði öllum að
umsjón hraða leiðir,
hirtu um það í hverjum stað,
hjá svo skaða sneiðir.

Sýndu vægð og ven á þægð,
veittu nægð af fóðri;
alt fjarlægðu', er heilsu' og hægð
hnekkir frægð með góðri.

Góða kú, ef getur þú
gjört að búeign þinni,
hirðing nú að henni snú,
hepnast sú ef kynni.

Mjólkur kýr þó mjög sè dýr,
margt þèr býr hagræði,
skortur flýr, en forði nýr
fæst órýr með gæði.

Margar ær ef eignast fær,
og með þær kant fara,
búsæld grær og gróða nær
gjöldum lærir svara.

Naut og sauðir auka auð,
ala snauða' og ríka,

ríflka brauð og rýra nauð,
ræktast hauður líka.

Fjárstofn valin vel upp al,
vænan, þvalan, sterkan.
Vandaðan smalann velja skal,
vitran hal og merkan.

Vel þjer hesta væna' í lest,
ven þá bezt er getur;
enn þó mest þeim opt á sezt
ætla nesti' um vetur.

Hinum áttu' að hjúkra brátt,
heim aðdrátt er færa,
þá ei láttu þola bágt;
— þetta máttu læra.

Hèr því flestu', er finnst og sèst,
framar mest það gleður:
röskum hesti ríða hrest
rekkum beztu meður.

Föst ef stilling fylgja vill,
fáki' er snilli að ríða,
þar við spilling engin ill
eykst, er fyllir kvíða.

Skemtan bezt og meinlaus mest
mun því hest að reyna,

geð fær hrest og gleði fest,
gjörir ei lesti neina.

Ást og vín, er meining mín,
meir við hríni spilling,
varúð týni, villi sýn,
veiki brýna stilling.

Þegar prófar, — haf við hóf, —
hjörtinn þófa feita,
mest hann sljóvar meðferð gróf,
mæði kóf og þreyta.

Tryggan fundinn taminn h u n d
tak í lund óþráan;
með þèr skunda greitt um grund,
gagna stundum má hann.

Til þín elur einlægt þel,
ötull vel og dyggur,
naumast felur nokkur vèl
nautur fèlags tryggur.

Rakka þann, sem rètt þèr ann,
ræk þú hann og metta;
utan bann við búsmalann
brúkast kann til lètta.

Tíðum sèr hann, um hvað er,
eignir ver og geyir;

hjá hvað fer og bæ að ber,
bráðla þèr hann segir.

Ræktu sjó, enn sæktu þó
sízt mjög óvarlega.
Kári hló, enn Kólga sló,
kvíða bjó og trega.

Mar þó brauði miðli' og auð
meira hauðurs arði,
tíðum dauða bráðan bauð,
böl og nauð ei sparði.

Ægis dygð er blönduð brigð,
bundin stygð mjög skæðri,
með varygð hans treystu trygð;
tilsjón byggðu' á æðri.

* * *

Ef ákvörðun er þín sú:
um Guðs hjörð að hirða,
hafðu vörð á helgri trú,
helzt það gjörðu virða.

Sífelt meining sannleikans
seg þú einarðlega;
máttu ei hreina merking hans
minka á neina vega.

Og þó þyldir ofsókn hèr,
svo æfin vildi slitna,

ekki skyldi aptra þèr
um hans gildi vitna.

Hafðu gát á herrans hjörð,
hana lát ei farast;
eru úr máta mörg og hörð
meins um sát að varast.

Vopni andans beittu bezt,
bæg frá grandi illu,
áríðandi met þèr mest,
mót að standa villu.

Ógnaðu þrjótum hörð með hót,
hnektu ljótum vana;
sporna mót að spretti' upp rót
spilt, og fóttroð hana.

Bægðu þráum burt þjer frá,
blygðan fá þeir mætti;
en ef sjá þeir að sèr þá,
aptur tjá þeim sættir.

Drottins sauði seð þú á
sönnu brauði' af hæðum;
sálar nauða sulti frá
svift þeim dauða skæðum.

Breyska' ámintu blítt með hægð,
braut þeim kyntu rètta,

aumum hlintu að með vægð;
ávalt sintu' um þetta.

Þá, er særir syndin mest,
sannleiks fær á vegi,
lífs að tæra lindum bezt
ljúft af nærast megi.

Auga festu' á allra hag,
að sem flestum hjúkra;
enn þó bezt við andláts dag
öndu hrestu sjúka.

Trúar settu takmarkið,
til þess rètt að sjái,
lífs uppsprettu lindir við
laug og mettan fái.

Lömbin smáu Lausnarans
lát með háfögnuði
ljósið sjá í lærdóm' hans,
og lífinu ná í Guði.

Hans að ótta hneig þau fljótt
helgum þrótt svo nái,
dygða frjótt með ráð svo rótt
rangt og ljótt forsmái.

Varast mest, að vantrú blind
við þau festi rætur,

er hún verst af allri synd,
elur lesti' og þrætur.

Svo er blinduð sjá ei má
sælu lindir hæða,
manninn hindrar frá að fá
frið og yndi gæða.

Móti segir sífelt nei
sannleiks eigin-máli,
anda hneigir helgum ei,
hroka slegin stáli

Lærdóms hljóm og lifnaðinn
lát samróma falla,
og lofstírs blóm á lífdag þinn
leggja' að dómi allra.

Tímans gáðu teiknum að,
til þess ráðir betur
í, hvað spáð og ákvarðað
er, og skráð í letur.

Þú munt nytsemd þar af fá,
þitt ef vitið skorðar
helgra rita rökum á,
röngum þyt þèr forðar.

Það er meining mín og trú,
megi reyna að skilja

spádóms greinir gefnar nú
Guðs að hreinum vilja.

Hann hefir spádóms ljós oss lèð,
lengra frá svo mættum
vegin sjá, og viðsjá með
varizt fáum hættum.

Hrein ef sannleiks orði á
elska manninn styður,
Guð ei bannar þekking þá,
af þörf sem hann um biður.

Ofhátt þèr ei ætla samt;
æfi hèr á tíðum
náum vèr með skilning skamt;
Skyldan er: að hlíðum.

Viljirðu' yndi fá og frið,
frá svo hrindist kvíði,
skaltu' ei binda vit þitt við
vilt hugmynda-smíði.

Það er norður ljósum líkt,
litlar skorður hefur;
tengja þorðu' ei trú við slíkt
tál, er fordild vefur.

Opinberan einni bezt
eigum vèr að trúa;

óhult er og inndælt mest
að henni sèr að snúa.

Hún er manni ljós á leið,
lærdóm sannleiks geymir,
styður hann, svo skamtað skeið
skunda kannn í heimi.

Náð hún boðar frelsi og frið,
fyrir voða þanninn,
Guðs aðstoð og líknar lið
lætur skoða manninn.

Dýpstu græðir sálar sár,
svalar, fræðir, gleður
tíð um bæði og eilíf ár
æðstu gæðum seður.

Virðum þá og þökkum bezt,
— þar að gá hver skyldi: —
að hún hjá oss er rótfest;
er það háleit mildi.

Hún er ein, sem hjarta manns
hvíld má hreina gefa,
leið hèr beina lífi hans,
lækna mein og efa.

Að því dást má dýru mest
Drottins ást-hjálpræði;

glögt kann sjást þess blessan bezt,
betri fást ei gæði.

Helzt ósnjöll er vantrú vest,
veldur föllum skæðum,
svika-göllum mörkuð mest,
mótstæð öllum gæðum.

Við sig bindur, vafin synd,
vèla myndir hálar;
frá sèr hrindir heimsk og blind
heill og yndi sálar.

Iðran hatar, hæðir trú,
hjartans bata tefur
fær ei ratað framar nú,
frelsi glatað hefur.

Heitin þeim er hvergi nein
hjálp, sem gleyma Kristi,
ekki geyma orð hans hrein,
eftir heimi þyrstir.

Vantrú hindrar vit, og því
vísar á synda stigi;
sannleik hrindir útlegð í,
að sèr bindur lygi.

Sá, er smáir sannleikann,
sjá ei má hið rètta;

ávalt þjáir heimskan hann,
hrjáir ánauð pretta.

Orpinn fjötrum andinn þá,
eymdatötrum búinn,
viltur lötrar langt burt frá
ljóssins götu snúinn.

Gott framkvæma gættu mest,
girndir slæmar tefðu;
eins og sæmir, allra bezt
eftirdæmi gefðu.

Sælu grein og sæmd er víst,
siðum hreinum haldir;
hugsun beina haf: að sízt
hneyksli neinum valdir.

Öðrum gefa ásteyting
ávöxt hefur skemda
um sig grefur allt í kring,
eflaust krefur hefnda.

Það er eyðing andarfriðs,
auðnu meiðing versta,
viss afleiðing synda-siðs,
sóma deyðing mesta.

Varast þú að villast nú,
vond er búin snara:

nokkrir snúa og trufla trú.
tíð vill sú að fara.

Gamla drekans[1] flærð er frek,
friðinn rekur vargur;
viðgang tekur vonzku þrek,
verður sekur margur.

Afgrunnsdýpið[2] undir býr,
eitri spýr að þjóðum;
trúin skír í felur flýr,
friðar snýr af slóðum.

Falska spámanns[3] merkin má
mörg hèr sjá og þekkja;
teiknin há hann hyggur á,
heim er náir blekkja.

Niflheims þrenning þessi enn
þó ei spenni jörðu,
óttast menn, að margir senn
muni kenna' á hörðu.

Vèla bruggan vekur ugg,
voðann skugga málar;
lærdóms muggu mórautt grugg
myrkvar glugga sálar.

---

1) *Opinber. Jóh.* 12 *kap.* 2) *Op. b* 13 *kap.*
3) *Op. b.* 19, 20.

Hæst vill sitja holdlegt vit,
heim sem ytra prýðir,
hefir krit um heilög rit,
hæðir og biturt níðir.

Heims vísinda margbeytt mynd
menn kviklynda blekkir;
sannleiks hrinda sjóð í vind,
sálar yndi hnekkir.

Sannleiks vottum vísa brott,
viðmót gott ei sýna,
trúna spotta, gjöra' að glott,
götu Drottins týna.

Mannvit hátt sig hefur brátt
hugsan þrátt með tregri,
hirðir smátt um helgan mátt,
hafnar sátt guðlegri.

Góðir menn þó gefast enn,
Guðs er kenning frama;
meður penna' og munni senn
myrkra spenning lama.

Vondu brjótast vilja mót,
vinna bót og stoða;
ílsku rót og heimsku hót
hrekja og fótum troða.

Trúar sterkir vanda verk,
við Krists merki standa;
hræðast hvorki hramm nè kverk
heiftugs erki-fjanda.

þeirra sál er sterk sem stál,
stillt, forsjál í öllu,
hrindir táli, hrekur prjál,
hreifir máli snjöllu.

Drottni hjá þeir fullting fá,
fast því á hann trúa;
neitt þeim má hans merkjum frá
megna þá að snúa.

— * * * —

þó nú víða villa' og stríð
veki' ófríða siði,
víst mun síðar sælli tíð
sjást með blíðum friði.

Trú við slíka gleðin grær,
geðs er mýkir ótta:
sannleiks ríkið sigur fær,
svikin víkja' á flótta.

Helg trú þá mun þjóðum hjá
— þetta má ei efa —
rætur dável fastar fá,
fagran ávöxt gefa.

Þá mun friður, frjálsræðið
fögrum siðum valda,
og rèttlætið um sèrhvert svið
setja grið og halda.

Kærleiksrós mun koma' í ljós,
kveikja frjósamt yndi;
öðrum kjósa hver mun hrós,
hverfur ósamlyndi.

Glaður sinni sannleikinn
sigurvinning fagnar;
bundinn finnur hegning hinn
höfðinginn og þagnar.

Drottinn sá er allt vald á,
alla þá, er ljúga,
hart mun slá og hrekja frá,
hefnd svo fái drjúga.

Hinir þá, sem honum tjá
hlýðni' og á hann trúa,
Drottinu sjá, og honum hjá
helgaðir fá að búa.

---

Kaupmanns stètt ef kemst þú í,
kostgæf rètt að breyta;
girnd ei metta þína' á því,
þig á prettum feita.

Ei lát þoku ágirndar
augum loka rèttum,
svo með okri seimi þar
saman mokir þèttum.

Eigingirnd vill einatt þrá,
ata syndum vilja,
varpa blindu vitið á,
veg rèttinda hylja.

Ekki sízt við sölu og kaup,
svo það lízt mèr kynnist,
að fær þrízt svo undanhlaup
ekki er víst að finnist.

Skynsemin er beygð í bönd,
blíð tilfinning deyfist,
ágirndin fær yfir hönd,
illviljinn þá hreifist.

Aldrei sæktu eftir því,
auragnægt þó vinnir,
verzlun flæktur verða i;
verkarækt meir sinnir.

Eflaust þó er þessi stètt
þörf og ómissandi;
hver sem bjó við hana rètt
hagnað þróar landi.

Frjálsu skeiði skundar á,
skilinn heiður finnur,
ef hann sneiðir okri hjá,
alt með reiðu vinnur.

Hver ein stètt er svo fyrir sig
sönnum flèttuð dáðum,
hagkvæm rètt og heiðurlig,
hollum sett með ráðum.

Hver vel stoða hinar má,
hamla voðagöllum;
þannig skoða allar á
eftir boðum snjöllum.

Hússèttin[1] þó helzt það er,
haft í minni' óvöltu,
ættstofn hinna og þær ber
allar í sinni kjöltu.

Brjóstum hennar alast á
auðgir menn og snauðir;
þaðan rennur fjármegn frá,
flestum grennir nauðir.

Hún með rèttu heita má
hinna stètta móðir;
henni mettast allir á,
upp þar spretta sjóðir.

---

1) *Hússtètt hèr = bændastètt.*

Hvar tilhögun hússtjórnar
hefur lögun góða,
herma sögur hækkar þar
hagsæld fögur þjóða.

Helzt því spakir höfðingjar
hafa' á stakar gætur,
yfir því vaka alstaðar,
að hún taki bætur.

Yfirboð ef áttu hert,
aftra voða blindum;
þína skoða skyldu, vert
skjól og stoð hreinlyndum.

Konu þinnar þiggðu ráð,
þau er kynni bata,
ef þú finnur í þeim dáð,
engu sinni glata.

Skírri meður skoðun er
skynsemd lèð oft snótum;
getur skeð hún glöggar þèr
geti sèð að bótum.

Enn með flýti aldrei samt
á þau líta máttu,
ef að hlýta, fylg þeim framt,
fús þau nýta áttu.

Síður eldri' enn yngri þèr

ekta veldu freyju;
miður feld þín ást við er
aldraða held'r enn meyju.

Konu vel þèr ei af auð,
er þú selur trygðir;
mundar hèlu mörk oft snauð
margar elur dygðir.

Fest þèr svanna fátækan,
fús er vann að trygðum,
fyrr enn annan fullríkan,
fátt er kann af dygðum.

Mjög þó smá ef auðlegð er,
olla má það nauða;
bágt er þá að binda' að sjer
bauga gná örsnauða.

Gefni klæða kjós þèr helzt
knýta' um þræði trygða,
þitt jafnræði, rètt sem telzt,
ríka' af gæðum dygða.

Ef mjög rík og ættar há
auðs er brík, sem hyllist,
kannske af slíku meira' en má
metnaðs sýki fyllist.

Sig of mikið mens ef slóð

metur hvik í geði,
kannske þykist þèr of góð;
það eru svik í gleði.

Kastar ryki kærleik á,
kann afvik að gera,
hvort ofmikið hinu þá
hjóna þykist vera.

*Sömu* virði *sæmd*, og auð
sífelt hirði' og nytji;
*sömu byrði* bæði' ótrauð
beri' í kyrð og striti.

Samlynd bæði' í sæld og þraut,
svo að mæðan lèttist,
sífelt þræði sömu braut,
sömu gæðum mettist.

Öðruvísi' ef að fer,
ástin frýs og blíðan;
aftur gýs upp óhreinn hver,
ilt er rís af síðan.

Valdsins neyttu varygð með,
vizku skeyttu greinum;
sízt áreittu saklaust geð,
sannleik beittu hreinum.

Hjá þèr vaki hugur sá:
hag ei þjaka veikum;

líttu sakir allar á
eftir maklegleikum.

Heftu kæti, kals og blót;
kærleiks gæt að blóma;
lítillætis ljúft viðmót
lát þèr ætíð sóma.

Oft um vanda, vel að gá,
varna grandi áttu;
ástar blandinn ótta þá
af þèr standa láttu.

Hirtu' um þetta, — það er bert
þinnar stèttar prýði;
þeir, sem settur yfir ert,
aðgæt, rètt að hlýði.

Of ei máttu minnka þig,
mátans áttu að gæta;
þrjóta, hátt er hefja sig,
hörðu láttu mæta.

Heiðri laga veittu vörð,
vondum aga tjáðu;
eins og hagar, hegn misgjörð,
heimsku jag af sláðu.

Aldrei pretta breið á blett,
beittu stèttar valdi;

mál til settu svo hver nett
sínum rètti haldi.

Lastaþoku bældu brok,
bægðu Loka-ráðum;
sízt við doka, undir ok
ýttu hroka bráðum.

Hafðu mest í hug þèr fest,
að hitta bezta veginn;
aga lesti, laga brest;
lát því frestað eigi.

Sífelt stunda sanna dygð;
sèrt þú undirgefinn,
hug þinn bundinn haf við trygð,
hlýðnis mundu skrefin.

Hvaða stètt sem ertu í,
ef án pretta vinnur,
huga settan haf á því,
hrósun rètta finnur.

Þó af tregðu þægða hèr
ef þetta bregðast kynni,
þína hegðun Herrann sèr;
helzt það legðu' í minni.

Hann þá býtir blessan þèr,
beztan hlýtur sóma,

og nær þrýtur æfin hèr,
eilífs nýtur blóma.

Taktu vara á tímanum,
tíðar farið bendir;
hin rètta þar af rímist um
ráðning, hvar við lendir.

Líttu' á það, sem liðið er,
löngum að því gáðu;
athuga, hvað á eptir fer,
og við skaða sjáðu.

Eflaust girnast muntu mest
mót að spyrnast voða;
ei lát fyrnast: als til bezt
orsakirnar skoða.

vitni ríkast reynslan ber,
regla slík mun haldast:
»verkið líkast orsök er«,
af því víkur sjaldnast.

Maður sá, er margs vill gá,
mun oft sjá við halla;
»stemma má að ósi á«,
annars tjáir varla.

Alt hvað skeður skaltu nú
skynsemd með álíta,

margt fær sèð, er þá kant þú
þèr til *glcði* nýta.

Viðburðanna glögt að gá,
greind má sanna magna,
og vekja manni varygð hjá,
vel sem kann að *gagna*.

Til þess gefur teikn auðsær
tímans vefur kljáður;
skaltu' ei efa' að skeð enn fær,
skeð sem hefur áður.

þessu með eg mæli frítt,
— menn vansèð þó haldi:
örfátt skeður alveg nýtt
undir veðurtjaldi.

Orða gáðu aldraðs manns,
ef hans náð fær hylli;
oft eru ráðin ágæt hans,
auka dáð og snilli.

Virðing tjáðu veikum dug,
vizku dáð ef prýðir;
vel þín gáðu: af góðum hug
gefin ráð ei níðir.

Óráðþæginn oftast nær
auðnu haginn skemmir;

hæst ólagið hann því slær,
hjartað baginn-klemmir.

Sá, sem hatar heilnæm ráð,
hollum glatar vegi;
sönnum gat ei sóma náð,
ef sannleik mat hann eigi.

Þó þèr farist allvel að,
engan þar með hrjáðu,
allan varast ofmetnað;
aumra kjara gáðu.

Hafðu gát á hver þú ert,
haltu máta beztum;
mikillátur maður bert
mætir hnjátum flestum.

Hver sig stærir, hneisu fær,
hans auðsær er vansi;
hinn, sem lærir hógværð, nær
hreinum æruglansi.

Ráð það læra ljúft þèr ber
lífs á værum degi:
byrðar þær ei bittu þèr,
er borið fær þú eigi.

Það, sem er þèr ákvarðað,
áttu að bera sáttur;

ei gjör þèr að oki það,
án sem vera máttu.

Heimskur þykist hygginn, því
hroka ryk hann blindar;
sínum mikill augum í
aulastrykin myndar.

Vill ei kannast við, sig neitt
vanti' í mannvitsgreinum;
framför sannri fær hjá sneitt,
fróðleik ann ei hreinum.

þykist betur öðrum alt
einn til setja kunna;
ann'ra metur mannvit halt,
minnst því getur unna.

Hyggja glaður æ skalt að,
ef ert maður svinnur,
rètt á hvaða stund og stað
starfir það, er vinnur. —

Stunda ef lærir læknisment
list með kærleiksríka,
þar sem færi þèr gefst hent,
þjáðra' átt særing mýkja.

þeim, sem reynist heilsan hætt,
hjálp skalt beina veita;

sjúkra mein að geta grætt
gleði hrein má heita.

Lækni heiðra helzt ber þann,
hverfa neyð sem lætur;
lyf tilreiðir heilnæm hann,
heilsu greiðir bætur.

Hann sèr vinnur hugást manns,
hrósið finnur þæga,
lengi svinnir höldar hans
heiðra minning fræga.

En virðing ná mun varla sá,
er vinnur fáar bætur,
hann ef hjá sèr meir enn má
magnast ágirnd lætur.

* *
*

Föðurlands þèr innræt ást;
er hún manns í heimi
*heiðurs krans*, er minnst kann mást,
minning hans bezt geymir.

Hún er *skylda helguð dygð*,
hyggju- snildar blómi;
hún er fyld af hollri trygð,
hrein og gildur sómi.

Hún er fjörug, föst og merk,
framgjörn, örugg þegar,

heiðvirð, gjörir hetjuverk,
huguð skörunglega.

Sparar hverki fè nè fjör,
frægðarverkin sýnir;
sín þó merki kárna kjör,
kjark ei sterkum týnir.

*Hverju landi heilnæm er,*
*hverju standi-klýðir;*
*hvers, er vandað hjarta ber,*
*hug og anda prýðir.*

Hugsaðu, maður, helzt um það,
hjá þèr stað hún eigi,
hylli' og laði hrós þèr að,
hrindi skaða' úr vegi.

Lát þèr tamt um lífsins dag
lèntan skamt um hirða,
annara jafnt sem eigin hag
áttu samt að virða.

Fèlag það, sem ertu í,
ætíð glaður skyldir
verja skaða, enn veita því
velvild, hvað sem gildir.

Það er sómi held'r enn hitt,
heiðurs róm þèr gefur,

mannorðs blómið magnar þitt,
mótfalls dóma tefur.

Fèlags góðu fylgi af
fagur gróði sprettur,
greiðir slóð um hauð'r og haf,
hlífð fær þjóða rèttur.

Þar með eining eflist hrein,
ilskumein ei spretta;
kærleiks grein þar blómgast bein;
bezt má reynast þetta.

Frjáls þar gleði fyllir geð,
friðnum lèð er valdið;
alt ákveðið er og tèð
ástsemd með framhaldið.

Þar fær trygðin dug af dygð,
deyja stygð og þrætur;
fals og lygð þá flýr úr bygð,
festir hrygð ei rætur.

Háttaprýðis ráð vel ræmt
ræk, sem hlýðir standi;
áttu sníða' alt samkvæmt
efnum, tíð og standi.

Gæt að settan, rakinn rètt,
reikning nettan haldir

um inntekt lètta' og útgjöld þètt,
ei svo prettum valdir.

Reglum halt við ráðlag snjalt,
reynslu skaltu velja;
gagn margfalt þèr met ávalt:
að mæla alt og telja.

Ráðdeild hrein í hverri grein
hagsæld einatt þróar;
hvar sem reynist nýtni' ei nein
nægtir seinast gróa.

Hirðuleysis hátt þèr frá
hrind sem reisir pínu,
armóðs kveisu kvillaþrá
kveykir hreisi þínu.

Bæjasnatt — það segi' eg satt —
sumum hratt frá gengi,
soltnir dratta, fara flatt,
fá ei skattinn lengi.

Betra' er heima — enn bæjasveim —
bú að geyma' í snildum;
vel er þeim, er safna seim,
sízt þó gleyma skyldum.

Gjörðu flest, sem getur bezt,
gáðu mest að snildum;

hýstu gest, enn heiðra prest,
huga festu' á skyldum.

Yfirvald i heiðri hald,
hroka baldinn kæfðu;
tregðast aldrei greiða gjald,
græzku kalda svæfðu.

Ferðamönnum frjálsum inn
fylgd og önnur gæði;
þínum grönnum góðvikinn
gef þú sönn heilræði.

Hug þann frá þèr hvergi slít,
— hald það áform dyggur —
spor þín sjáist nokkur nýt,
nær þú dáinn liggur.

Og nú þegar þar að gá,
svo þanka veg í festir:
heiðarlega lifir sá,
er látinn trega flestir.

Sá, er enginn saknar þá,
sèst af genginn vera;
hans ófengið hrós út má
hvergi mengi bera.

Þekking er á sjálfum sèr
sannleiks-veru merki;

henni ber að beita hèr
bezt í hverju verki.

Hún þèr ávalt hjálpa má
hyggju ná sem beztri;
henni hjá þèr haltu þá,
heill það spáir mestri.

Sjálfselskan ef villa vann
og verkið þannig baga,
samvizkan þèr segja kann
sannleikann og laga.

Gæta mundu að meðvitund
meður undirgefni;
hverja stund á hennar fund
hugarlund þín stefni.

Henni áttu' að hlíða brátt,
hana láttu dæma
á þann hátt, að sè hún sátt,
sèrhvað mátt' framkvæma.

Jafnan þetta hugfast haf:
— hrein þèr settu merkin —
kærleiks rèttum rótum af
ráð þín spretti' og verkin.

Kærleiks trygð er dýrmæt dygð,
dróma hrygðar greiðir,

þvær af stygð, en býr í bygð
blóm áskygð af reiði.

Dygðum greiða gjörir leið,
grið útbreiðir víða,
stygðum eyðir, stöðvar neyð,
styður heiður lýða.

Mann þó stæri mjög auðsær,
mennt frábær og auður,
hvergi mærum heiðri nær
halur kærleikstrauður.

Hinn sem geði hlýju með,
hvar sem rèð að bera,
aðra gleður, sèr fær sèð
sæmdir lèðar vera.

Án kærleika' er vonin veik,
völt og reykul trúin,
líkt sem eik af elli bleik,
elds til kveykju búin.

Öll án hans er athöfn manns
ötuð vansa grómi,
sízt þar glansar sannleikans
sigurkrans nè blómi.

Varlega skunda vins á fund,
viðsjá mundu brúka;

það ígrunda þessa stund,
þú hafir lund ósjúka.

Víndrykkjan oft villir mann,
verður hann ógáður.
einatt glanna gjörir þann,
er gætti' að sannleik áður.

Drykkjuslark er drussa mark
deila, slarka, þvaðra,
reiðast, þjarka, reisa hark,
rámum barka slaðra.

Aumir af sneipu', er í þá kleip,
öls af geipan reynast;
eftir fleipur, flas og geip
flatir steypast seinast.

Megn er klígja kverkum í,
kvöl að nýju þola,
síðan spýja og svo af því
sig út bía og kvola.

Frekt að drekka' er fýsn óþekk,
flestan skekkir sóma,
vefur rekka vansa hlekk,
vizku hnekkir blóma.

Með ógáti veittu ei vín,
við það mátan festu;

ölvaðir láta eins og svín
oft með fáti vestu.

þeirra metta gráðgu girnd
getur rètt ei kallast;
mjög við þetta safnast synd,
siðir nettir hallast.

þannig sóa sínu fè,
sumir þó að hæli
mesta óráð eg held sè,
armóð dró að bæli.

þín og ann'ra hagsæld hèr
hvað sem kann að veikja
engan sannan í sèr ber
ekta mannkærleika.

Manndóms hefur merkin bezt,
mikið ef á dálpar,
þegar krefur þörfin mest
þar að gefa og hjálpa.

Láttu bera þar á þèr,
þinni veru og snilli,
tíð þá er að safna sèr
sæmdum hèr og hylli.

Geymdu hjá þèr hugsun þá,
holl er má þèr vera:

út hvað sáir, að því gá,
ávöxt nái bera.

Sízt má víta verk einhlít,
við sem knýtist hylli;
til ónýtis engu' út být
er það lítil snilli.

Lostagirnd í læðing bind,
læstu' í grind og sveltu,
eiturkind úr ýmu vind
út með skyndi veltu.

Hún er gjálíf, glensin, þrá
góðan smáir vandann,
lúnótt, snávís, flensin, flá,
fjötrum þjáir andann.

Hennar kyngis kitlan sling
kærleik þvingar fróman,
á mann þyngir óvirðing,
auðnu stingur blómann,

Vekur frygð enn fælir hygð,
frekum brigðum hlaðin;
rekur dygð, en tælir trygð,
tekur blygð í staðinn.

Aura gráðug girnd áfjáð
gleypir bráð ósvífið;

saurug ráð með syndaþráð
sveipa háðung lífið.

Veikir, bjagar, brýtur lag
breiða slagar veginn,
sleikir, nagar, slítur hag,
slept og magadreginn.

Lækjum vamma veitir fram,
völd að skamma hótum;
klækja ramman keitu damm
köldum þrammar fótum.

Þekkir pretta pörin rètt,
plokkar þètt hvað getur,
skekkja rèttinn gjörir grett;
gaman þetta metur.

Snapar hvað, sem hún kemst að,
hrapar í skaða lesti,
krapa vaðal táls því trað;
tapast staður bezti.

Sín ei skeytir halda heit,
heiðri neitar bezta;
hrín ef reitur vanast veit,
vinnings leitar mesta.

Hennar trykt er hegðan spilt,
harðúð fylt með brigðir,

hungruð, kvilt, af heimsku vilt,
hvergi á skylt við dygðir.

Heimskugirnd er hrekkjakind,
hungruð, blind og galin;
hennar mynd úr huga hrind,
hún við synd er alin.

Þrávalt finnur þjófurinn
þrauta vinning snúinn,
háðung stinna og hrakninginn;
hans er minning fúin.

Hylli tæmd er hans framkvæmd,
helzt afskræmd og baldin;
illa ræmdur, allri sæmd
er frádæmdur haldinn.

Lítils virtu latan mann,
lát hann firtur heyra;
fremur hirtu um fátækan,
forlög stirt sem keyra.

Móti leti hug þinn hvet,
hvað bezt getur, starfa;
auðnan betri arð þeim hèt,
iðn sem meta þarfa.

Letin grá er lymsk og þrá
leiða má til synda

hverja þá, sem hún leggst á,
og henni' ei frá sèr hrinda.

Sneyðir auði snilli-trauð,
sneypu frauði makar;
eyðir brauði ill og snauð,
auðnu dauða bakar.

Kargri lygi útlegð í
ýttu' úr gígjar vindi;
arga spýju fjandans flý,
flýttu því með skyndi.

Lyga smiður, lífs er mið
lasta ryði klínir,
deyðir frið og sóma sið,
sannleik niður týnir.

Talaðu beint, sem bezt fær meint;
brúkaðu hreint málfæri
ljóst og leynt, svo glögt og greint
gildi, reynt þó væri.

Sannleiks ást ei blessan brást,
betra nást mun eigi;
margt ei fást og fátt hèr sjást
er fremur dást að megi.

Reiði blind er banvæn kind
breiðir út synd og trega;

sneyðir yndi, ástar lind
eyðir skyndilega.

Bæði ljóta' og beiska rót
bræði skjót fram leiðir;
æðir fljót með heimsku-hót,
hræðir, blótar, eyðir.

Lemur, bítur, mölvar, mer,
mælir vítur tómar;
kremur, slítur, bölvar, ber,
bælir lýtum sóma.

Kæfðu hroka', að hann ei þèr
hamingju loki portin;
úr hans koki oft gaus þver
óláns- þokusortinn.

Harla þrungið hans er geð
hofmóðs-drunga sagga,
yfir klungur klifrar með
klækja þungan bagga.

Hefðar sólginn hans er því
hugur ólgu fyltur,
þykkju bólginn þvælist í
þótta kólgu viltur.

Bælir yndi blekkir grið,
brælu kyndir stygða,

stælir lyndi flekkar frið,
fælir myndir dygða.

Bakmálg tunga blekt háðung,
Blængs út ungar fóstri;
tíðum slungin slys býr þung
slaðurs þrungin gjósti.

Það er hrak að bíta í bak,
bleyðitak má heita;
skaða makað meiðsla-blak
má oft saknæmt veita.

Kölska plóg sá keppinn dró,
kaldan róg er spinnur;
honum krógi hlýðinn nóg
hans í skógi vinnur.

Forvitnin er fýsn ósvinn
frjálsan vinning treður;
hún ei ginni huga þinn
heimsku sinni meður.

Standa á hleri ósnjalt er
andstygð hèr af kemur;
öðrum ver að veiðum fer,
venju' er sèr þá temur.

Oft óhreint er hljóðskraf reynt,
hrós mun seint upp skera;

talið beint og meinlaust meint
minnst þarf leynt að vera.

Brúkaðu leyni brögð ei nein,
blygðar grein er valda;
þegar meining þín er hrein,
þú mátt einurð halda.

Lífga' óþarft er óhófsart;
oft sá kvarta hlýtur,
efnum djarft er eyðir snart,
örbyrgð hart þann bítur.

Óhófsprjál er heimska hál,
heilla brjálar standi;
óforsjála ærir sál
ætlan táldragandi.

Nízka þver ef of stór er,
óláns þèr má valda;
helzt því ber og fegurst fer
frá henni sèr að halda.

Heimsku-þrái hald þèr frá,
harðri spá það veldur;
aldrei sá mun farsæld fá,
fast sem á því heldur.

Trúðu mèr að þrjózka þver,
þræls art er hin vesta,

skömm alsbera bakar sèr,
og böls uppskeru mesta.

Falskan segg ei lag við legg,
lævíst negg er felur;
þitt í skegg hann skirpir dregg',
skimp hvasseggjað velur.

Skeinir heiður hræsni' ógreið,
hreina meiðir siði,
meinar, eyðir auðnu leið,
einatt sneyðir friði.

Heitir trygð, enn hugsar stygð,
hreytir lygðar salla;
skreytir brigð með skini' af dygð,
skeytir blygðan varla.

Sízt að slysum gjörðu gis,
glens er flysjungs yndi
lukku glis er lètt sem fis,
líkt og blys í vindi.

Fæstum reiður orðum eyð,
engan meiðir varinn;
öfug sneið er öllum leið,
ýfðu' ei fleiður marin.

Af tortrygni einatt hlýzt
ilt, svo hnignar friður;

hrein glöggskygni góð er víst,
greind og hygni' er styður.

Hrek úr brjósti leynt og ljóst
lunta gjóst í felur;
hver, sem dróst með þykkju þjóst,
þrælslegt fóstur elur.

Mjög ósvinn er sjálfhælnin,
sèrþóttinn fer illa;
tálið spinnur tvöfeldnin;
trúgirnin er villa.

Varast mas og fráleitt fjas;
forðast þras ósvífið;
æfðu' ei flas nè æði fas,
oft er slasar lífið.

Vert heilráður öllum eins;
að bezt gáðu rökum;
engum tjáðu orð til meins;
úr vel kljáðu sökum.

Rataðu skeið til heilla hratt,
hataðu breiða veginn;
bataðu neyð með geðið glatt;
glataðu heiður eigi.

Af því kemur auðna mest,
ef þú fremur þetta;

heil ráð nem og hirð sem bezt,
hvaðan sem þau spretta.

Hvað ávinnur, haf á gát,
hirð áminning gefna:
þig ei ginna gjafir lát,
gættu þinna efna.

Hógværð svinn og hreinskilinn
hylli vinnur lýða;
heiðurinn og hrós hvert sinn
hennar minning prýða.

Lítilætis lund ágæt
lèðan kætir friðinn,
nýtir, gætir, grundar mæt,
gleði - bætir - siðinn.

Skírlíf sál með siðugt mál
sæmdum brjálar ekki;
flýr hún prjál og síforsjál
sigrar tál og hrekki.

Iðin hönd, sem yrkir lönd,
armóðs gröndin kefur;
siðavönd og upplýst önd
auðnu bönd sèr vefur.

Virðing halda vel gæt að,
vertu' ei baldinn kálfur;

kendu aldrei öðrum það,
sem ert að valdur sjálfur.

Hófsemin er hegðan svinn,
hrósið finnur lengi;
hún sèr vinnur hagnaðinn,
heiðurinn og gengi.

Ljót er seyra að leggja á menn
last, sem þeir ei eiga;
talaðu fleira ekki enn
allir heyra mega.

Illa stinga oftast hèr
áreitinga slettur;
sínum kyngja orðum er
óvirðingar blettur.

Verk alræmt ei rengja þarft,
rót framkvæmda sjáðu;
aldrei dæmdu aðra hart,
eigin sæmdar gáðu.

Drambsemina í dróma hrek,
drekans gin í sendu;
ágirndina í útlegð rek;
öfundina brendu.

Er hún fóstur andskotans,
af hans brjósti sprungin;

tíðum bjóst í haminn hans,
heiftar gjósti þrungin.

Varast bleika vofu þá,
vest hún kveykir tjónið;
mannkærleikans eldi á
áttu að steikja flónið.

Öfund vest er eitur pest,
af henni lestir kvikna;
hún við bresti hlægin sèst,
hrósinu mest af stiknar.

Harðast kvelur hvern, sem vel
hugar þel gott elur;
róg þeim selur, hatur, hel,
heift með vèlum felur.

Horuð veik og hyggjusmeyk,
hörundsbleik og sviðin,
hungruð sleikir slysa reyk,
slægða leik við iðin.

Eigðu fèlag ei við þann,
sem iðkar vèl og hrekki;
þínum stelur heiðri hann;
hjá honum dvel þú ekki.

Holl þeim fatast hamingjan,
hans er sat að ráðum;

sínum glatar heiðri hann,
háðung atast bráðum.

Óráðvandra veg og stand
varast, grand sem hreppir;
ódygð blandað ilt samband
æru og manndygð sleppir

Ólánsmanni með ei vert,
mörgum vann það tregðu;
forsmá hann þó ei nê ert,
aldrei hann á legðu.

Heldur á að aumka þá,
óláns þrá er líða,
holla tjá þeim hjálp, ef má,
hrinda frá þeim kvíða,

— * * * —

Sína hver einn byrði ber,
böl þá sker, sem líða;
gefið hèr ei öllum er,
auðnu sèr að smíða.

Lukku hjólið hverfult er,
hverju' oft ólag fleygir;
annað skjól því eigðu þèr,
á sem stóla megir.

Alvöld hæða Forsjón fríð
flest má gæði veita;

þegar mæðir þrauta stríð,
þar hjálpræðis leita.

Hún þinn greiða gjörir stig,
grandi eyðir stygða;
máttu reiða þar á þig,
ef þræðir leiðir dygða.

Getur manni gæfu stoð
gefið sannarlega,
Guðs ef hann að gætir boð,
gleði kann útvega.

Hvaða kjör, sem hlotnast þèr,
hógværð gjörir skarta;
góðs til fjörugt geymdu hèr
glaðvært, örngt hjarta.

Alt það gott, sem gæðsku-ráð
gefur Drottins mönnum,
æðstu sprottið er af náð;
elskuvott það sönnum.

Þegar gleði' og gagn fær sèð
Guðs þèr lèð af mildi,
þakka geði góðu með
gæðin tèðu skyldi.

Ef þín lestist auðna nú,
yndis brest svo hefur,

haltu bezt við bæn og trú, —
bót það mesta gefur.

Þegar mætir mótlætið,
mjög sem grætir hjarta,
þèr innræt vel þolgæðið;
það má ætíð skarta.

Rètt að unna sjálfum sèr,
sèrhver kunna ætti;
hyggju brunninn hreinsa ber,
hönd og munn það bætti.

Sjálfs ást hrein er sóma grein,
sízt því neinu spillir;
vilt ef reynist magnar mein,
margan einatt villir.

Hver með sanni sèr rètt ann,
ef sínar þannig vinnur
gjörðir, hann að geðþokkann
Guðs og manna finnur.

Öðrum hèr líkt sjálfum sèr
sífelt ber að unna;
rètt þá fer, enn fullreynt er,
fá'r — því ver — það kunna.

* * *

Til þess mundu að mörgum sízt,
mjög skuldbundinn verðir;

óhægð stundum af því hlýzt
yndis stundir skerðir.

Skuldum svara skaltu brátt,
skynsemd þar til hvetur;
í þær fara ekki mátt,
ef þeim varizt getur.

En ef hjá þvi ekki kemst,
um þín sjái hyggja,
að þær þá sem allra skemst
á þèr nái liggja.

Ber oft æði þunga þrá,
þankar mæða huldir;
er frjálsræði sviftur sá,
sem á hlæðast skuldir.

Tak þèr mið, og marka svið;
mjög þig niður beygir
fleira riðinn vera við,
enn verða að liði megir.

Sèrhvern styð með sæmd og trú,
sem þú lið mátt færa;
gakk á snið við það, sem þú
þarft ei við að hræra.

Semja þorðu' ei svika krók,
sannleik forðast granda,

þín loforð, sem letur á bók,
lát í skorðum standa.

Heimskubaldið hjal umflý,
hafðu vald á munni;
hreifðu aldrei öðru' enn því,
á fram halda kunnir.

Hygginn lærðu að verða vel,
vizku nærðu blóma;
af því færðu ánægt þel,
auðnu, værð og sóma.

Þèr hvað mætir hugleið hèr,
hverju sæta eigir,
hvaða rætur hafi í sèr,
hvar til gæti dregið.

Skoðaðu það í krók og kring,
kemst þú að þá betur,
oftast hvaða afleiðing
af því staðið getur.

Örbyrgð hefur ervið skref
óró þrefar hyggja;
sízt í efa sögn þá vef:
»sælla' er að gefa enn þyggja«.

Virðing fann sá veita kann,
vel ef hann það rækir;

eins og sannan merkismann
margur þann heimsækir.

Hann fræbæru hrósi nær,
hylli fær að vonum
mörgum kær því liðsemd ljær;
lánið grær hjá honum.

Flestir sinna fátt um hinn,
fátæktin sem kefur;
hann þó vinni verkin svinn,
virðing minni hefur.

Hann þó ber með sjálfum sèr
sæmd og er án trega,
pundi hèr ef veittu ver
vel, og fer sparlega.

Ríkan mann, sem maurum ann
meir enn sannleiks vegi,
enginn kann að heiðra hann,
hróss er vann til eigi.

Hitt er frægð, ef fjárins gnægð
fylgir vægð í brjósti;
ást og þægð með hollri hægð,
hreint af slægð og þjósti.

---

Horfðu' á veginn, hvar þú fer,
hvort þar eigi mæti

háskalegir hnjótar þèr,
er hart við slegizt gæti.

Hygg ávalt að varast tjón
viðsjá haltu ljúfa;
»hafa skaltu höggorms sjón,
enn hjarta' einfalt sem dúfa«.

Hygginn maður háskann flýr,
honum að því gætir;
heimskur þaðan hvergi snýr,
hratt því skaða mætir.

Hugprýðin er heiðurs verð,
hagnað svinn ef vinnur;
ofdirfðin er heimsku herð,
hrósið minna finnur.

Tíðum skaði skeður, að
skammsýnn maður keppir
ofhugaður á þann stað,
er angurs- vaðal hreppir.

Þeim af vegi villur fer,
vert þú ei samferða,
þig að beygi sízt með sèr,
og svikinn megir verða.

Viltum greið, ef gegnir sá,
götu leið á rètta,

annars sneið þig honum hjá;
hafna skeiði pretta.

Veg þeim beina, vilt er fer,
velgjörð hrein má heita;
þetta einatt orkar hèr
umbót meina veita.

Varpar syndum sá í vind,
sáran hindrar trega,
sem hugblindan ljóss að lind
leiðir yndisvega.

Ugglaus hýma háski er;
hugsaðu' um tíma lèðan;
dauðans grímu brátt að ber,
burt skalt rýma hèðan.

Skjótt að linni lífsins reim,
leggja í minni skaltu;
huganum inn í annan heim
öllum sinnum haltu.

Skygnast þangað skal þèr tamt,
þó skýlan hangi' í milli
heftu ranga hyggju samt;
hrein trú ganginn stilli.

Opinberan æðstu mest
iðkaðu hèr að kunna;

sannleik þèr hún sýnir bezt,
sem að hver skal unna.

Hann þig frjálsan getur gjört,
gefur sjálfs þekkingu;
hver hans málsgrein eytt fær ört
allri tálsblekkingu.

Kristna siði ræktu rètt
reglum griða haltu;
kirkjur við og kennistètt
kjósa frið þèr skaltu.

Hann er smáir helgan sið,
heims veg á er leiddur;
hreinan má ei höndla frið,
heillum frá er sneyddur.

Sífelt kringum sveima hann
sjónhverfinga grýlur;
einatt stinga innra mann
örvæntingar pílur.

Honum sýnist öndvert alt,
yndis dvínar hagur
gæfu týnist gengið snjalt
gleði skín ei dagur.

Þann ei sinna sannleik vill
synda ginning ærir,

hann því vinnur verkin ill,
vond tilfinning særir.

Öllu frá þèr ýttu' á brott,
er andans þjáir gengi;
hvað sem ágætt er og gott
al þú hjá þèr lengi.

Hugsun ríka hafðu' á því:
— hyggja slík ei þrotni —
hvort þèr víkur veröld í,
að við þig líki Drottni.

Ekki hræðast þarftu þá
þröngt vandræða tjóður;
voða skæðum víkur frá
Vísir hæða góður.

Þeim er sannleiks þræðir veg,
þó við mannraun stríði,
granda kann ei gremja treg,
glepur hann ei kviði.

Þó að stöðum æfi á
oft hèr sköðum mæti,
meður glöðu geði sá
gengur hröðum fæti.

Ef að hjartað er grandvart,
óttast þarft ei vítur,

eða kvarta um aðkast margt,
ódygð hart er bítur.

Þó að eitruð öfund ljót
á þig skeytum slengi
skal ei bleyta hug þinn hót
hann eða þreyta lengi.

Líkt og detti dropi' á klett,
dregst af lètt í hasti,
eins má þetta eyðast rètt,
þá öfund slettir lasti.

Innra mann að þekkja þinn
þèr um annast láttu;
gjöra hann svo gagntekinn
Guðs af sannleik áttu.

Að hann votti alla dygð
æðstu Drottins ráði,
elski gott og geymi trygð,
gangi brott frá háði.

Trúar miði tapi sízt,
takmarkið svo finni,
helgun við sig haldi víst,
hjartanu frið ávinni.

Geðs í runni grói hans
guðhræðslunnar lilja,

svo við brunninn sannleikans
sig ei kunni skilja.

Stundi fremur öllu að
andleg nema fræði,
lífsins kemur ljós við það
lengur og skemur bæði.

Helgum dögum Herrans á
hlýð þú fögrum greinum,
sálar högum sintu þá
að sannleiks lögum hreinum.

Ei lát spiltan aldar brag
ýmsum gyltan prettum,
svo fá vilt þitt sinnislag
að sið frá byltist rèttum.

Líkstu' ei þeim, er leggja sitt
lag við heiminn synda,
láta gleymast lífið hitt,
lèttúð geyma blinda.

Dögum níðast Drottins á,
drukknir ríða jórum,
forðast hlýða orð Guðs á,
eyða tíð með slórum.

Næði spilla, masa margt,
með óstilling raupa;

hleypa milli húsa djarft,
heimta fylli staupa.

Skeyta hvorki skömm nè dygð,
skylduverkum gleyma,
helzt ómerkir hafna trygð,
heitorð sterk ei geyma.

Týna bæði sæmd og seim,
svína' æði beita,
dvínar gæða þrek hjá þeim,
því næst skræður heita.

Af því girndir upp þeim hjá
alast syndum spiltar,
hafa þeir yndi' að horfa á
heimsins myndir viltar.

Alsjálfráðir ætla sèr
engum háðir vera;
laga þráð og vald því ver
vilja' af máðan gera.

Þeir eru mönnum þyrnar hjá,
þægðum grönnum safna;
þessir hrönnum þroska ná,
þokka sönnum hafna.

Heimi hjá þeir hugsa' að fá
hefð og álit bæði,

hann þeim frá sèr hrindir þá
hans ei ná í gæði.

Horfnir brauði, hylli og auð,
heillir trauðar fanga;
þannig snauðir þjáðir nauð
þeir til dauða ganga.

Ef þú vilt þinn auðnu mátt,
eins og skylt er fræva,
þennan spilta þanka-hátt
þig um stiltu að æfa.

Fylgdu þeim, er drýgja dáð,
Drottins heimamönnum,
sem að geyma grandvart ráð,
gegna seimi' og önnum.

Rækja skyldur ljóst og leynt
ljúft með snild og dáðum,
hvað sem gildir, gjöra hreint
Guðs að vild og ráðum.

Þeir eru prýði landi' og lýð,
listum fríðum sinna,
bezt er hlýðir, brúka tíð,
blessan síðan finna.

Hugsaðu þannig — helzt það ber
hverjum manni skoða —:

ávalt hnekkir hverju því,
hún sem ekki skilur.

Hart útskúfar helgri trú,
hana á skrúfúr setur;
helzt óljúfan hug með nú
helg vill rjúfa letur.

Trúarefnum í vill sízt
undirgefni þekkja;
á þeim hefna æ við býst,
ok þau nefnir hlekkja.

Heimsins villu hata sið
hræðstu spilling vega;
Drottins hylli og hlýðni við
hald þèr fyllilega.

Vanann láttu' ei villa þig,
við hann máttu berjast;
mikið hátt þó hefji sig,
honum áttu' að verjast.

Hann er blindur, hreifir þó
hefð og myndugleika,
tíðum synda tauminn dró,
tælir og bindur veika.

Helzt að sèr hann hænir þá,
hyggju' er bera smærri;

þá svo fer, hann þrælkar á
þeim, sem eru stærri.

Því er ver, að vaninn þver
víða fer og spillir,
meður sèr í myrkur hèr
margan ber og villir.

Ef þig henda hrösun kann,
og hyggja blendin freisti,
bið þèr senda hjálpráð hann,
heim sem endur leysti.

Iðrast, grát og gæt að hèr,
góðan máta takir;
niðrun lát ei þykja þèr,
þínar játa sakir.

Flýðu' á náðir frelsarans,
frá þèr sláðu efa,
hlýð á ráðin heilög hans,
hvíld er þjáðum gefa.

Hann til hefur nóga náð,
nauða sefar galla,
sekum gefur sýkn og ráð,
synd af skefur alla.

Önd ef svíða sárin mest,
sút og kvíði þreytir,

höndin blíða Herrans bezt
hjúkrun þýða veitir.

Heit ef flóa' af hvörmum tár
og hrösun óar geði,
lætur gróa sollin sár,
sendir ró og gleði.

Líkt og móðir aumkar ein
ungbarns hljóð og tárin,
Drottins góða gæzkan hrein
græðir blóðug sárin.

Tár af hvörmum fægja fer,
faðmar vörmum höndum,
náðar örmum á svo ber
út frá hörmum vöndum.

Hann af freisting fær oss leyst,
frið og hreysti gefur;
honum treystum, hann fær reist
hrygðin kreist þá hefur.

Ekki kvíða eigum nú
angurs hríða kælu,
heldur bíða' í blíðri trú
betri tíðar sælu.

Vonar neista nærir það,
næm svo freisting þrotni,

mæðan geist ef gengur að,
gott er að treysta Drottni. —

Guð þig leiði lífs um skeið,
líkn hans greiði veginn,
hjá svo sneiðir hættri leið
og hjartað meiðir eigi.

Hag þeim annist ókrenktan,
auðnu-banni forði;
góðs til þannig hefji hann
með helgu sannleiks orði.

Frjáls af ótta fram að gröf
friðar njóttu gæða,
síðan hljóttu' í sælu gjöf
sigur gnóttir hæða.

---

Áir þar við þagnar sker
þulins marar jálkur;
má hann hvar um hauður fer
heita: *Varabálkur*.

Öld þó fræði óður lítt,
auð nè græði' í vasa,
máske kvæðið nokkrir nýtt
nefni' *heilræða-klasa*.

Um þá stund hèr vissa vex,
nær vörum undan bar hann;

átján hundruð sextíu' og sex
samanbundin var hann.

Úr sem kalið alt er fjör
við æfi-hala tefur,
gamall smali, komin í kör,
kvæðið alið hefur.

Með góðfýsi svinnri senn
sínu lýsi' ágæti,
gjarnan kýs eg, góðir menn
galla' á vísum bæti.

Ef að sveit þeim auga ljær,
ýmsir breyta rómi;
sannlegá veit, eg sæta þær
sundur leitum dómi.

Nokkrir lýtin elta ein,
ausa vítum þegar;
aðrir nýta heil ráð hrein,
og hugsa' um ýtarlega

Góðir ætíð bata brest,
bróður gæta skyldu;
fróðum lætur lag það bezt,
ljóð ef bæta vildu.

Hjalið sofna fljótt nú fer,
flutt af dofnu geði.

Heiti *Fofnisbana* ber,
brag sá stofna rèði.

Hèlu lóðar öld' með óð
el ei hnjóð í minstu;
fel eg góðum Guði þjóð,
gel nú ljóðin hinstu.

Nætur góðar býð eg brátt;
bæti þjóðin galla;
gæti ljóða lýðir þrátt.
Læt eg óðinn falla.

## Sálmur.

**Lag: Upp hef eg augun mín.**

Viljir þú farsæld fá,
og flýa skaðvæn slys,
Guðs ríkis gættu þá,
geymdu þess rèttlætis;
ef þú með alúð hèr
ástundar fyrst því ná,
alt hitt mun hlotnast þèr,
sem heimta þörfin má.

Guðhræðslan einlæg er
til als þèr nytsamlig,
annars heims eins og hèr
um náð fullvissar þig,
innvortis eykur frið,
eflir trú, kærleik, trygð;
útvortis athæfið
innra manns lýsir dygð.

Guðs orð þèr getur kent
gang rèttan lífs um skeið,
hjálpræðis hnoss á bent,
hugsvölun veitt í neyð;
kraftur þess kveikir vel

kærleik til náungans,
innrætir auðmjúkt þel
og elsku til Skaparans.

Ekkert í öllum heim
orð Guðs við jafnast kann;
ekkert má ógna þeim,
er elska dýrgrip þann;
synd, dauði, djöfull sinn
dug missa fyrir því.
Gef þú oss, Guð Drottinn,
að ganga þess krafti í.

Jesú Krists lærdóms lind
lífgar og styrkir sál,
burt rætir böl og synd,
bezt hreinsar hug og mál,
leiðir á lífsins braut,
lagfærir hjartað mest,
viðnærir þol í þraut,
þjáðum hugsvalar bezt.

Ó Jesú, orð þitt sè
æ, meðan lifum hèr,
ljós vort og leiðtogi,
loksins þá fáum vèr
orð heyra þessi þín
þeim síðsta degi á:
börn komið blessuð mín,
búið í dýrð mjer hjá.



Varabálkurinn og sálmurinn hjer á undan, er skrifað upp og búið undir prentun af hinum mikla ágætismanni og merkispresti sjera Jónasi sáluga Björnssyni á Ríp. Formálann hefir hann samið og líka búið undir prentun litlu áður en hans missti við.

Akureyri, 21. dag marzmánaðar 1872.

Björn Jónsson.

